# Nýtt
# Bæna og Sálmakver

samið

af

Ólafi Indriðasyni,
presti að Kolfreyjustað.



Útgefið af

*Einari Þórðarsyni*,
prentara.

Reykjavík.

Prentað í prentsmiðju Íslands, hjá E. Þórðarsyni,
1853.

Háæruverðugum

Herra H. G. THORDERSEN,

biskupi yfir Íslandi,

riddara af dannebrogsorðunni

auðmjúklegast og alúðlegast

tileinkað

af

**höfundinum.**

## Yfirlit efnisins:



---

[1]) þessar hátíða og helgidaga - bænir eru útlagðar.



# 1. Hátíða og helgidaga-bænir.

## Jólabæn.

Eilífi, almáttugi guð, trúfastur í náð og miskunsemi. Mikill er sá fögnuður, sem þú ljezt boða mannkyninu, þegar Jesús fæddist; ómælileg er sú elska, sem þú auðsýndir heiminum, þegar þú gafst þinn eingetinn son, til þess að allir þeir, sem á hann trúa, skyldu ekki fyrirfarast, heldur öðlast eilífa sælu. Eilífi miskunari, hvað erum vjer? dupt og aska; þó lætur þú þjer um oss hugað; óþakklát börn, fallnir syndarar; þó miskunar þú þig yfir oss. Þú, vor dýrmæti frelsari, ert hið sanna ljósið, sem upplýsir oss, hinn mikli fræðarinn, sem boðar oss náð, og hellir huggun í vor særðu hjörtu, hinn voldugi frelsarinn, sem leysir oss frá syndinni og dauðanum, hinn elskuríki meðalgangarinn, sem með þinni verðskuldan opnaðir oss veginn til guðs, himinsins og sælunnar. Þjer helgum vjer

hjarta vort og líferni, og allt hvað vort er. Þig viljum vjer elska, þjer viljum vjer treysta, með hlýðnu hjarta viljum vjer meðtaka þinn lærdóm, og af fremsta megni taka þína hegðan oss til fyrirmyndar. Hneig vor hjörtu til þín, og styrk oss með þínum krapti, til að líkjast þjer í guðrækilegu, grandvöru líferni alla vora daga, svo að vjer mættum eptir þetta líf eilíflega með þjer sælir verða. Amen.

## Nýársbæn.

Eilífi guð, mikill í trúfesti, óbreytanlegur í náð og gæzku. Þú ert jafnan hinn sami og þín ár taka engan enda, hvert augnablik minnir oss á velgjörninga þína; því skal vort fyrsta andvarp við þessi tímaskipti vera þjer helgað. Lofaður vertu, ó guð! vort athvarf og faðir, ár eptir ár, frá einni kynslóð til annarar. Lofuð veri þín eilífa gæzka, þín mildi, sem engin takmörk hefur. Með angráðum hjörtum minnumst vjer þess í dag, með hvaða kaldsinni og óhlýðni vjer höfum tekið á móti þinni ómælilegu gæzku, árið sem leið. Æ, fyrirgef oss, eilífi miskunari! vort óþakklæti, vorar syndir, fyrir þíns sonar, vors frelsara,

heilögu verðskuldun. Lát oss fyrir hans sakir öðlast miskun og náð. Miskuna þig yfir oss, og lát þína elsku til vor aldrei enda taka.

Umgyrð konúng vorn með þinni föðurlegu vernd; gef honum speki og styrk til að stjórna ríki sínu vel og loflega, til að efla guðrækni og dyggð, sannleika og rjettvísi, andlega og líkamlega velferð þegna sinna. Auðsýn, ó guð! þína náð öllu konúngsins húsi. Breið þú blessun þína yfir vort föðurland; efl og blessa alla leyfilega bjargræðisvegu, öll kristileg fyrirtæki, allar góðar athafnir þeirra, sem landið byggja. Upplýs og vernda þá, er að valdstjórninni þjóna. Virztu að endurlífga, styrkja og blessa kristindóminn með þínu orði og hinum heilögu sakramentum. Gef upplýsta, rjettsýna og kostgæfna kennendur, sem með krapti þíns anda efli þína dýrð og tilheyrandanna velferð. Blessa uppfræðing og menntun ungmennanna, og gef öllum foreldrum náð til að uppala svo börn sín, að þau verði þarfir og elskuverðir limir þjóðfjelagsins, og sælir erfingjar ríkis þíns á himnum. Ó guð! unn oss í ár og alla lífdaga vora að ganga kostgæfilega á þínum

vegum, halda öll þín boðorð trúlega, og gjöra það fúslega, sem þjer þóknast vel. Í þína bók voru ritaðir allir dagar vorir, áður hinn fyrsti þeirra ljómaði. Kenn oss að taka öllu því, er oss mæta kann í lífi þessu, með undirgefni og lotningu fyrir þínum föðurlega vilja; að vera þakklátir í meðlæti, þolinmóðir í mótlæti. Á Þig vonum vjer, eilífi miskunari. Þinni föðurlegu vernd felum vjer oss og vora ókomnu daga. Leið oss eptir þínu ráði, og krýn oss að lyktum með dýrð og heiðri. Amen.

## Föstubæn.

Drottinn Jesús, þú ert líflátinn fyrir oss, og hefur keypt oss guði til handa með blóði þínu. Dýrmæti frelsari, enginn skilningur fær gripið mikilleik þinnar elsku, engin tunga þakkað þjer nje lofað þig verðuglega. Með klökkum hjörtum tilbiðjum vjer þig, er gafst sjálfan þig til friðþægingar fórnar fyrir allrar veraldarinnar syndir, og bjóst oss með dauða þínum frið handa samvizku vorri, styrk til hins góða, huggun í alls konar hörmungum, og örugga von um sælufullan ódauðlegleika. Hvernig ættum vjer að geta nokkurn tíma gleymt þjer,

gleymt því, sem þú hefur gjört og liðið fyrir oss, fáráða syndara? Vek hjá oss viðkvæma tilfinning af því skelfilega volæði syndanna, sem þú hefur frelsað oss frá, og kenn oss með lifandi trú að leita frelsis vors einungis í þjer og þinni heilögu verðskuldun. Þú ert dáinn til þess, að vjer mættum eilíflega lifa. Þjer, drottinn vor Jesús, veri hjarta vort og líferni eilíflega helgað. Þú elskaðir oss fram í dauðann; kenn oss að elska þig fram yfir alla hluti, og af þakklátri elsku til þín að elska hver annan innbyrðis, já, elska þín vegna einnig þá, sem oss á móti brjóta. Og þegar vjer freistumst til synda, æ! að minning þess, er þú leiðst, fengi þá varðveitt oss, svo að vjer aldrei krossfestum þig á ný með vitanlegum syndum. Þegar öll önnur huggun verður að engu, eins og optlega skeður í mannraunum þessa lífs, lát oss þá hugleiða þína sálarangist, og þínar píslir minna oss á þann veginn, sem þú hlauzt sjálfur að ganga til föðursins. Þegar öllu jarðnesku athvarfi er lokið á dauðastund vorri, veri þá þinn dauði styrkur vor í veikleikanum, fyrirmynd vor í andlátinu, að vjer, eins og þú, felum þá anda vorn í hendur hins himn-

eska föður. Þú hefur fullkomnað hið mikla verk endurlausnarinnar, og ert krýndur með dýrð og heiðri. Æ! lát þitt eptirdæmi uppörva oss, að vjer einnig með stöðuglyndi fullkomnum það skeið, sem oss er fyrirsett, og sjeum þjer trúir til dauðans, svo vjer mættum eilíflega vera með þjer á himnum, og sameina þar lofsönga vora með þeim, sem fyrir þitt blóð hafa sigurinn unnið. Amen.

## Páskabæn.

Drottinn Jesús, vor heilagí frelsari, þitt er veldið, heiðurinn og dýrðin frá eilífð til eilífðar. Vjer lofum þig og tilbiðjum, vjer þökkum þjer fyrir velgjörninga þína. Þú komst í heiminn, til að reisa hið fallna mannkyn á fætur aptur, og boða því líf og sælu. Þú gafst sjálfan þig í dauðann og barst hegningu synda vorra, svo vjer mættum frelsaðir verða. Þú hefur einnig sannað, að þú ert sá sigurhöfðingi, sem hafðir dauðann í valdi þínu, og hefur með sigri þínum opnað oss inngöngu í þitt dýrðarríki. Heilagur er sá sannleiki, sem oss er kunngjörður í dag, um upprisu þína frá dauðum. Mikill er sá fögnuður, sem af þessum sannleika streymir inn í hjörtu vor.

Jesús er upprisinn. Hvað óbifanlegur er nú grundvöllur trúar vorrar, hvað gleðileg vonin, hvað inndæl sú huggun, þegar vjer hugsum til dauða vors og forgengilegleika, að vjer einnig fyrir þinn krapt eigum von á að upprísa til eilífs lífs. Nú er allt myrkur umbreytt í ljós, öll efasemd í vissu, öll hryggð í fögnuð. Dauði, hvar er þinn broddur? Helja, hvar er þinn sigur? Þakkir sjeu guði, sem hefur gefið oss sigurinn fyrir vorn frelsara, Jesúm Krist. Ó! að það þakklæti, sem vjer fórnfærum þjer í dag, væri þjer enn þá verðugra, sú hlýðni, sem vjer játum þjer, enn þá flekklausari og fullkomnari. Æ! enn þá kennum vjer vanmáttar vors, styrk oss með þínum krapti; unn oss æ betur og betur að líkjast og þókknast þjer, svo að vjer eitt sinn mættum fá að vera hjá þjer á himnum, og lifa með þjer að eilífu. Amen.

## Uppstigningardagsbæn.

Heilagi frelsari, drottinn Jesús Kristur, fullkomnað er þitt mikla endurlausnar-verk á jörðunni. Þú ert inngenginn í þitt eilífa ríki. Himneskir herskarar lofa þig og vegsama. Hve miklu fremur ættu þeir, sem

þú hefur endurleyst, að prísa þig og tilbiðja. Drottinn Jesús, af öllu hjarta þökkum vjer þjer fyrir þína elsku, fyrir allt það, sem þú gjörðir og leiðst á þínum hjervistar dögum, til að greiða götu vora til himnanna. Þú ert seztur í hásæti dýrðar þinnar; minnstu vor til hins bezta. Þú ert upphafinn yfir alla himna; líttu í náð ofan til vor, sem enn þá erum vegfarendur á jörðunni. Drottinn Jesús, afstýr hinni verðskulduðu hegningu synda vorra. Send oss þinn anda, sem útskýrir oss náð þinnar endurlausnar og eflir kröptuglega betrun vora. Kenn oss að þekkja þig rjettilega í trúnni, og gjör oss hæfilega til að þjóna þjer í heilagleika og rjettlæti. Þú hefur lofað að vera með þínum trúuðu alla daga, allt til veraldarinnar enda. Uppfyll á oss þetta fyrirheit þitt; vertu með oss í lífinu, vertu með oss í dauðanum, og þegar þú kemur í dýrð þinni, til að dæma alla jarðarkringluna með rjettvísi, unn oss þá með hinum blessuðu þíns föður að fá inngöngu í það ríki, sem þú hefur fyrirbúið oss, vera þar með þèr að eilífu, gleðjast af vegsémd þinni og syngja þjer lofsönga vora. Amen.

# Hvítasunnubæn.

Heilagi almáttugi guð, engin takmörk hefur speki þín, veldi þitt og dýrð; óumræðileg er mildi þín við oss mennina. Hver dagurinn kunngjörir oss gæzku þína, hvert augnablik æfi vorrar sannfærir oss um, að þú ert kærleikurinn. Hátíðin, sem vjer höldum í dag, endurkallar í sálu vorri minningu eins af hinum mestu velgjörningum þínum. Á þessum degi útbjóst þú hina fyrstu játendur kristindómsins með speki og krapti, til að útbreiða hið blessunarríka ljós Jesú fagnaðarerindis. Á þessum degi sendir þú anda þinn, til að helga þá og staðfesta í þínum sannleika. Þeirra kenningar eru þín boðorð; þeirra orð vísa veg sáluhjálparinnar.

Eilífi guð, láttu þetta ljós, er þú hefur kveikt oss, æfinlega leiða oss á vegi lífsins. Láttu Jesú lærdóm vera mæliþráð allra hugrenninga vorra, tilhneiginga og athafna, styrkja oss í breyskleika vorum, hughreysta oss í raununum, og kröptuglega hugsvala oss í voru síðasta stríði. Send þinn anda í hjörtu vor, sem kenni oss að þekkja, hvað inndælt það er og affaragott, að æfa sig í þessari himnesku

speki og gjöra það, sem hún býður, og staðfesti oss í hinni huggunarríku von um eilífa sælu, sem þú af náð hefur fyrirbúið þeim, er elska þig og hlýða þjer trúlega, fyrir Jesum Krist, vorn frelsara. Amen.

## Bæn á þrenningar sunnudag.

Hversu dýrmætar eru oss hugmyndirnar um þig lifandi, allsvitandi, eilífi guð, hversu háleitt stefnumið þeirra. Hvert sem vjer rennum auga voru, finnum vjer ótal merki speki þinnar, almættis og gæzku. „Himnarnir skýra frá þinni dýrð, festing stjarnanna kunngjörir verkin handa þinna", og jörðin drýpur af nægtar gæðum. Með almættisboði skapaðir þú ótal veraldir, sem enginn dauðlegur finnur takmörk að. Með einu orði fullgjörðir þú hið mikla kerfi náttúrunnar, sem vjer með lotningu dáumst að niðurskipuninni, að sambandinu og lögunum í. Fyrir ógnum þinni titra fjöllin, hafið og allir, sem á jörðunni búa, þó lauztu niður frá hæð dýrðar þinnar, til að frelsa hið fallna mannkyn. Þú sendir son þinn, til að vera fræðara vorn, og friðþægingarfórn fyrir syndir vorar. Fyrir þinn heilaga anda veittir þú huggun hjörtum vorum,

styrk og náð, til að ganga á vegi sáluhjálparinnar, þjer til lofs og þóknunar, þegar vjer með rjettri trú og von nálægjumst hásæti þitt. Líknsami guð, gef oss náð til að kannast rjettilega við þessa velgjörninga þína, að ganga með hlýðnu hjarta á þeim vegi, sem þú hefur fyrir oss lagt, og brúka með lifandi trúnaðartrausti þau náðarmeðöl, sem þú hefur oss í hendur fengið, til að umgangast þig æ meir og meir, og komast í lifandi sameiningu við þig.

Ó guð! vjer fáum ekki gripið þína fullkomlegleika, þeir eru æðri öllum skilningi nokkurrar dauðlegrar veru. Kenn oss því, eilífi guð, að bera lotningu fyrir því, sem þitt orð kunngjörir oss um þig, þína háleitu veru og eiginlegleika, en myrkur skilnings vors hindra oss frá að skynja ljóslega. Gef oss náð, til að mikla þína velgjörninga hjer í tímanum með þakklátum hjörtum, glöðum í þeirri von, að einskært ljós skal á himnum upprenna skilningi vorum, og fullkomna þessa þekkingu, svo að vjer eptir þetta líf mættum verða hluttakendur hinnar eilífu sælu, sem Jesús hefur afrekað oss. Amen.

## Bæn
### eptir prjedikun á sunnudögum.

Miskunsami guð, vor himneski faðir, með lotningarfullum hjörtum berum vjer bænir vorar fram fyrir hásæti þitt, og vegsömum þig fyrir þá margföldu velgjörninga, sem þú hefur mildilega veitt oss allt til þessarar stundar. Hvert sem vjer rennum augum vorum, sjáum vjer ótal merki speki þinnar og gæzku, ótal þakklætisefni, sem þín örlætishönd hefur oss í tje látið. Ár út og ár inn kunngjörir þú oss þann veg, sem leiðir til sannrar farsældar. Ár út og ár inn kennir þú oss með orði þínu að þekkja þig og þann, er þú sendir syndurunum til frelsis, drottinn vorn Jesúm. Ár út og ár inn lætur þú kenna oss þann lærdóm, sem boðar huggun hinum hryggu, viðreisn hinum föllnu og þeim, sem vanmegna eru, styrk, til að sigra allar hindranir á vegi sáluhjálparinnar. Líknsami faðir, gef oss krapt þíns heilaga anda, til að fylgja þínu ljósi og þínum sannleika á allri vegferð vorri. Leið hjörtu vor í sannri guðrækni, svo vjer hlýðum fúslega boðum þínum og gefum oss með sonarlegu trúnaðartrausti undir þinn heilaga vilja. Eilífi

miskunari, vjer játum þjer yfirsjónir vorar og ávirðingar. Fyrirgef oss vorar syndir sakir Jesú, þíns sonar, og lát oss finna þá náð, sem vor frelsari hefur heitið og afrekað öllum iðrandi syndurum.

Alvaldi guð, verndaðu þetta land með þinni almættishendi, og lát þína blessan aldrei frá því víkja. Virztu að afstýra ófriði, dýrtíð og hungri, og öllum landplágum. Upplýs alla, sem í myrkrunum ganga, og leið þá með mildi þinni til yfirbótar og sáluhjálpar. Rek á burt allar villur hjátrúarinnar og vantrúarinnar, og gef, að hinn sanni kristindómur megi verða meir og meir almennur og kröptugur á meðal vor.

Konungur allra konunga, vjer biðjum þig fyrir konungi vorum; gleð hann með þinni blessan; lát hans ríkisstjórn farsæla verða, og gef honum langa lífdaga. Blessa alla, sem ríkið byggja, og efl oss og aðstoða í öllum leyfilegum athöfnum vorum.

Eilífi miskunari, huggaðu alla, sem harmþrungnir og nauðstaddir eru; miskuna þig yfir allar ekkjur, öll föður- og móðurlaus börn, alla fátæka, alla sjúka, alla undirokaða; já, yfir alla menn, því „enginn er guð annar en þú, og enginn hjálpari

manna". Vert þú athvarf þeirra og verndari. Heilagi almáttugi faðir, þú, sem ert nálægur öllum þeim, er þig ákalla, þú veizt betur, en vjer, hvað oss er fyrir beztu. Vjer felum oss speki þinni og gæsku og fulltreystum því í hjarta voru, að þú veitir oss mildilega allt, sem oss er nauðsynlegt til lífs og sálar. Styrk oss í þessari trú, og kenn oss í þessari sannfæringu, hvað sem að höndum ber, að leita vors sálarfriðar í Jesú Kristi, vorum frelsara. Amen.

---

## 2. Viku-kvöldbænir.

### Sunnudags kvöldbæn.

Eilífi guð, miskunsami faðir, fyrir þig fram-ber jeg nú kvöldfórn mína, og þakka þjer af öllu hjarta, að þú í dag og alla æfi mína hefur svo mildilega verndað mig og blessað. Vegsömuð sje þín mildiríka, alvísa forsjón, sem alstaðar hefur sett velferð mannanna bæði sýnilega og ósýnilega verndara. Vegsömuð sje þín föðurlega elska, sem þú auðsýndir oss í Jesú Kristi, og þinn andi kunn-

gjörir enn þá daglega sálum vorum til upplýsingar, betrunar og velferðar. Enn í dag hefur orð lífsins verið kunngjört; enn í dag hefur þú kallað oss, til að öðlast hlutdeild í náðinni. Góði guð, láttu þetta hið blessaða sæðið festa rætur í hjörtum vorum, lát það þróast og bera ríkuglega ávexti trúar og kristilegra dyggða. Hreinsa úr hjörtum vorum illgresi syndanna. Gef oss náð, til að sigra alla hálfvelgju, alla ljettúð, allan mótþróa gegn þínum heilögu boðum. Enn í dag hef jeg, því miður, reynt, hversu auðveldlega þessar hindranir geta aptrað mjer frá þinni sönnu þekkingu og dýrkun, reynt, hversu mörgum breyskleika og syndum jeg er undirorpinn. Himneski faðir, miskuna þig yfir mig og fyrirgef mjer fyrir Jesú sakir það, sem jeg brotið hef. Unn mjer að ganga til hvíldar í fullu trausti til þinnar eilífu miskunsemi. Jeg er vanmáttug skepna og ófullkomin. Vernda mig með þinni hendi; jeg er dupt og aska, viðhald mjer með þinni náð. Lát varðengla þína umkringja mig og geyma fyrir öllu illu. Styrk þú hjarta mitt, til að hefja sig í næturkyrðinni til þín, og lát sálu mína jafnvel í svefninum halda sjer

við þig, þú hinn lifandi guð. Lát mig hvíla rósamlega á örmum þinnar föðurgæzku, og minn mig á, þegar jeg er að sofna, að það ert þú, sem vjer lifum, erum og hrærumst í. Drottinn, lát þína náð ekki frá mjer víkja; vertu með mjer, þá óttast jeg ekkert í náttmyrkrinu; þegar jeg hef þig, þá hirði jeg hvorki um himin nje jörð. Ef þèr þóknast, þá unn mjer að vakna glöðum og heilbrigðum á morgun; enn skyldi þessi nótt verða mín síðasta, þá unn mjer í krapti Jesú upprisu að vakna til fegri dags. Faðir, þinni almáttugu vernd fel jeg nú líkama og sál, vini og velgjörðamenn, og öll þín börn, hvar sem þau eru í heiminum. Breið þína náðar- og miskunar-hönd yfir oss alla, og gef oss þinn frið í Jesú nafni. Amen.

## Mánudags kvöldbæn.

Lofaður sjertu, almáttugi, eilífi guð, fyrir þá miskun og gæzku, sem þú hefur auðsýnt mjer á þessum degi. Þú hefur verndað mig frá öllum þekktum og óþekktum háskasemdum; án þinnar voldugu hlífðar og umsjónar hefðu allir hlutir getað orðið mjer að grandi. Þú hefur viðhaldið kröpt-

um sálar minnar og líkama. Þú hefur látið mjer gefast tækifæri til margs konar athafna, og ýmsar hvatir til að brúka þau eptir þínum vilja. Þú hefur blessað verk mín, og gefið mjer það, sem jeg þurfti mjer til lífs-uppeldis. Góði guð, þú hefur gjört enn þá betur til mín: þú hefur látið þinn anda fylgja mjer, benda mjer með ýmsum hætti til að þekkja og hugleiða sannleikann, og lokka mig til að fylgja honum. Ó drottinn! hvernig fæ jeg rakið alla velgjörninga þína? Af öllu hjarta þakka jeg þjer þá, himneski faðir, en jeg get það ekki, án þess jeg blygðist um leið yfir sjálfum mjer: jeg er svo breyskur og ófullkominn. Æ! fyrirgef mjer fyrir Jesú sakir allar syndir mínar og ávirðingar, og gef mjer náð til að keppast eptir helguninni með guðrækni. Jeg reiði mig á þín mildiríku fyrirheit við þá, sem betra sig. Gef mjer að finna, hvílík unun það er, að vera í vináttu við þig og hafa rósama samvizku. Varðveittu mig og mína, og öll börn þín, nú í nótt og alla æfi. Vak þú yfir oss, trúfasti guð; lát oss hvíla óhulta undir skjóli verndar þinnar, og unn oss að vakna heilbrigðum með endurhresstu fjöri.

Drottinn, „mín tíð og stund, eign, líf og önd, allt er í þinni hendi"; farðu með mig, eins og þjer þóknast, og láttu mig vera þinn bæði í lífi og dauða. Amen.

## Þriðjudags kvöldbæn.

Miskunsami guð, heilagi faðir, undir þinni vernd hef jeg aptur endað einn dag æfi minnar. Jeg þakka þjer fyrir þá náð, sem þú enn á ný hefur auðsýnt mjer. Ó! hvað föðurlega hefur þú verndað mig og hlíft mjer. Margir menn hafa vissulega í dag orðið dauðanum að herfangi, margir kollvarpazt í stormi mótlætinganna, margir liðið tjón á heilsu, limum eða lukku; en jeg er verndaður, jeg hef getað unnið verk köllunar minnar og þegið þína blessun. Engin armæða hefur orðið mjer um megn, enginn mótgangur yfirbugað mig. Drottinn, allt á jeg þetta þjer að þakka. Minni er jeg allri þeirri miskun og trúfesti, sem þú hefur auðsýnt þjóni þínum. Já, hvað er jeg? — vesall syndari, sem auðmjúkur hlýt að viðurkenna, að jeg gleymdi þjer þrásinnis, mitt í því jeg naut gæzku þinnar og mildi, og hef því til þess unnið, að þú útskúfir mjer.

Æ! gakk ekki í dóm við mig og vertu

mjer líknsamur fyrir Jesú sakir. Einungis í trausti föðurlegrar miskunar þinnar get jeg óhultur lagt mig til hvíldar. Drottinn, lát ekki traust mitt á þjer að engu verða. Gefðu sálu minni og líkama rósama hvíld undir þinni guðdómlegu verndar-hendi. Vertu hjá mjer, því að kvölda tekur, og dagurinn er liðinn. Þjer fel jeg mig og allt, hvað mitt er. Ef þjer þóknast, þá unn mjer að vakna glöðum og heilbrigðum á morgun, til að skoða ímynd gæzku þinnar og blessunar í hinum lífgandi geislum sólarinnar, og vegsama þig, guð allrar blessunar. Amen.

## Miðvikudags kvöldbæn.

Heilagi, alvaldi guð, þú ert líf mitt og styrkur, athvarf mitt frá eilífð til eilífðar. Jeg þakka þjer af öllu hjarta, að þú í dag hefur varðveitt mig svo mildilega, og bið þig, að þú sökum þinnar eilífu gæzku viljir framvegis vera mjer miskunsamur. Margt hefur mjer enn í dag áfátt orðið; æ! styrk mig til að sjá við því framvegis, himneski faðir. Yfirgefðu mig ekki, þó jeg hafi til þess unnið, og tak ekki frá mjer þinn heilaga anda; lát hann upplýsa skilning

minn, hvetja og styrkja vilja minn til þess, sem gott er, helga hjarta mitt og hugsvala því. Einungis fyrir þína náð fæ jeg hólpinn orðið, á hana reiði jeg mig, og bið þig, að þú í nótt virðist að vera minn verndari. Þú ert drottinn minn og guð minn, þjer fel jeg líkama og sálu, líf og velferð. Fyrir þinni guðdóms hátign krýp jeg fram á ásjónu mína. Drottinn, jeg sleppi þjer ekki, fyr en þú blessar mig. Unn mjer að komast í sameiníngu við þig og þann, er þú sendir, Jesúm Krist, verða njótandi hins margfalda ríkdóms mildi þinnar, og leiðast af þínum anda. Drottinn, blessa mig og varðveit, þá geng jeg óhultur til hvílu, og þegar jeg eitt sinn á að leggjast í kjöltu dauðans, æ! vaktu þá yfir mjer og styrk mig, almáttugi guð; heyrðu þá andvörp mín, þó jeg megni ekki að tala, og lát mig í Jesú nafni sofna rósamlega á þínu föður-brjósti. Amen.

## Fimmtudags kvöldbæn.

Lofaður veri guð, faðir drottins vors Jesú Krists, sem auðsýnir mjer svo margfalda gæzku, og hefur enn þá í dag verndað mig svo mildilega. Ótal hættur umkringdu mig;

á hverri stundu hefði dauðinn getað yfir mig fallið. Hvar er óhultur staður í þessum hættufulla heimi? Er ekki hver svipstund hlaðin með margföldum voða? Og hvað erum vjer mennirnir? skammsýnar, vanmáttugar skepnur, vesalir syndarar, ómaklegir þess, að hinn almáttugi varðveiti oss. En drottinn, þín gæzka er himnunum hærri. Hvað mörg ný ástarmerki hefur þú sýnt mjer í dag? Hingað til hefur þú hjálpað mjer, framvegis muntu einnig verða mitt athvarf. Fyrirgef mjer í Jesú nafni allar syndir mínar, og styrk mig til að vaka framvegis yfir samvizku minni, svo jeg megi öðlast hlutskipti með þeim, sem helgaðir verða, og rjettlættir fyrir trúna hafa frið við þig fyrir drottinn vorn, Jesúm Krist. Í þessari von geng jeg glaður til svefns. Jeg legg sálu mína til hvíldar í skaut miskunar þinnar; lát einnig líkama minn hvílast óhultan undir þinni guðdómlegu vernd. Góði guð, unn mjer alla æfi hjeðan í frá að vera þitt gott og hlýðið barn, og þegar mín dauðastund nálægist, æ! send mjer þá líkn og styrk, hjartkæri faðir, í hinu síðasta stríði, svo jeg fái sofnað rósamur í öruggri trú, og megi vakna glaður hjá þjer í eilífum fögnuði. Amen.

## Föstudags kvöldbæn.

Lofaður sje drottinn, og blessað sje hans heilaga nafn að eilífu, öll lönd uppfyllist með hans dýrkun. Hver dagurinn minnir oss á að vegsama hann, og hvert kvöldið á það að þakka honum fyrir velgjörðir hans. Hann heyrir andvörp hjartna vorra, hann tekur eptir bænum vorum, og fórnir guðrækni vorrar, svo lítilmótlegar sem þær eru, geðjast honum vel. Drottinn, þú ert athvarf mitt og styrkur. Þú hjálpar mjer í neyðinni og huggar mig í raununum. Föðurlega hefur þú enn þá verndað mig á umliðnum degi, því er hjarta mitt glaðvært, og sála mín vegsamar þig fyrir alla þá trúföstu gæzku, sem þú hefur auðsýnt mjer. En, ó minn drottinn og frelsari! hugurinn fær ekki gripið það, tungan fær ekki komið þar orðum að. Hinar líkamlegu velgjörðir þínar eru æðri en svo, að mín veika lofgjörð fái samboðið þeim, en hvað miklu fremur þá hinar andlegu. Hver getur mælt djúp þinnar guðdómlegu elsku? Hver dauðlegur megnar að rannsaka leyndardóm friðþægingarinnar, sem einglarnir dást að og tilbiðja. Ó minn frelsari! jeg krýp niður fyrir krossi þínum, þar sem þú pínd-

ist til dauða og fórnaðir lífi þínu fyrir syndir heimsins á hinum mikla friðþægingar degi. Með engu get eg vegsamað þig nema andvörpum mínum. Trúnaðartraust, elska og þakklátsemi eru þær fórnir, sem hjarta mitt girnist fram að bera; en angrið, sem jeg hef af syndum mínum, beiskir mjer sætleika náðar þinnar. Jeg get engan dag syndlaust lifað; einnig þessa dags yfirsjónir standa skrifaðar í bók alvizku þinnar. Eilífi miskunari, afmá syndir mínar með þinni verðskuldun; lát minning þinnar pínu hreinsa og helga hjarta mitt, kveikja hjá mjer innilega elsku til þín, og styrkja mig til að hlýða þínum boðum. Jeg reiði mig á þau loforð, sem þú innsiglaðir með blóði þínu, bið þig að framhalda við mig þinni náð, og fel þjer svo öll mín efni. Nú fer nóttin í hönd; vertu ljós mitt og hlífiskjöldur, og varðveit mig frá öllu illu. Almáttugi guð, í þínu nafni legg jeg mig til hvíldar; þegar þú ert verndari minn, þá sef jeg óhultur. Vek mig, þegar þjer þóknast, hvort heldur hjer eður annars heims; alstaðar er jeg í þinni hendi. Amen.

## Laugardags kvöldbæn.

Lofaður sjertu, þú hinn allra hæsti, sem lifir frá eilífð til eilífðar. Tímarnir skiptast til, ein stundin, einn dagurinn, ein vikan líður eptir aðra, en þú ert ávallt hinn sami elskuríki faðir, sem lætur þína gæzku vera nýja og ferska á morgni hverjum, sem breiðir þína blessun yfir hvern daginn, og þína náð yfir hverja kvöldstund. Drottinn, þegar jeg lít yfir alla lífdaga mína, hvað sje jeg þá annað en ný merki hinnar eilífu ástar þinnar og föðurlegu verndar. Góði guð, klökkur og vanmegna drýp jeg niður af tilfinning þinna velgjörninga; hversu óteljandi eru þeir og ómetanlegir, og hvað hef jeg til þeirra unnið? Jeg get ekki komið orðum að, en síður verðuglega miklað furðuverk ástar þinnar: líf mitt og kraptar, heilsa mín og atvinna, hver dagurinn, hver stundin, hvert andartakið, allt eru þínar náðargjafir. Öll blessun kemur frá þjer. Þjer á jeg að þakka hverja gleðistund, hverja líkn, hverja hugsvölun, sem jeg hef notið á æfi minni, hverja aðvörun og uppvakning, hverja uppörvun og styrk til hins góða. Já góði guð, þjer er það að þakka, að jeg er enn þá á lífi, það

